# Nokkrar athugasemdir

um

# fjárkláðann,

skrifaðar af

lækni **J. Skaptasyni,**

að fyrirmælum

amtmanns **J. P. Havsteins.**

---

**AKUREYRI.**

í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

1857.

Þegar fregnin barst með norðurlandspóstinum í haust, að kláðafaraldur það, er næstliðið sumar kom upp í Miðdal í Mosfellssveit, væri farið að breiðast út um nálæg hjeruð, og um leið kvisaðist, að vart hefði orðið við óvanalegan kláða á nokkrum bæum í Miðfirði — skipaði amtmaður Havstein, að fjárskoðun skyldi gjöra í allri Húnavatnssýslu undir umsjón 3. manna nefndar, er hann þar til setti.

Við hina fyrstu og aðra skoðun, sem nú eru afgengnar, hafa menn hvergi þókst finna hið sunnlenzka kláða-faraldur; samt er það álit flestra, að fjárkláði sá, sem hefur átt sjer stað að undanförnu, og jafnvel legið í fjárkyni sumra bænda, sje nú óvanalega mikill, og venju framar útbreiddur. Eptir eigin sjón og sögusögn annara, hefur kláðinn komið fyrir undir ýmsum myndum, og ætla jeg því að aðgreina hann í Skóf, Hrúður, Nabba og Skorpur. Þó er ekki þar með meint, að þetta sjeu 4 sjúkdóms-tegundir, því ein getur breyzt í aðra, t. a. m. skóf í hrúður, og líka koma stundum fleiri tegundir fyrir í sömu kindinni.

Skófin er gulleit, en líka opt hvít, kemur jafnaðarlega í síðurnar, einkum aptarlega, kviðinn, klofið og lærin; hún er ýmist með blettum, eða hún nær yfir mest allan kroppinn, einkum fyrir aptan bógana. Hún er í fyrstunni þunn, og situr föst í skinninu, en losnar síðan frá því, og fylgir ullinni, eptir því sem hún vex, springur í sundur og verður að væringu eða smágjörðu hrúðri, sem situr í ullarfætinum. Þegar hún er mikil, einkum á meðan hún ekki losnar, háir það kindinni, og verður hún föst átaks. Skófinni fylgir optast nokkurt ullarlos, sem eykst við það, að kindin nýr sjer og klórar; úfnar þá ullin, þynnist, hleypur saman eða dettur af. Þegar skófin losnar og ullin gysnar, fær loptið fríari aðgang og útdömpunin verður náttúrlegri; kindin fer þá líka aptur að braggast, einkum hafi hún gott og nægilegt fóður.

Hrúðrið kemur helzt í hálsgrófina, herðakambinn, herðarblaðslautirnar, aptur eptir hriggnum, og í klofið; þó kemur það líka i síðurnar og víðar. Það er sjaldan eins stórt ummáls og skófin, situr opt þjett saman í lófa-stórum klasa eða enn nú stærri bletti, en stundum finnst það hingað og þangað á gómstórum bletti, eða sem smáar örður, og hangir þá vanalega saman, líkt og skorpa, nema hvað það er ósljettara og dettur í sundur, þegar það er plokkað frá skinninu. Það stendur meira og minna út í ullina, er gult eður hvítt á lit, þurrt og hart, og fellur í sundur þegar það er núið á milli fingranna. — Skinnið undir því hefur optast hörunds-lit, þó kemur það fyrir, að roði sjezt í því, einkum þegar hrúðrið hefur verið fast niður í því, sem ætíð er í fyrstunni. Skinnið sýnist líka óvanlega sljett og gljáandi, sem kemur af því, að hárramurinn (Epidermis) hefur fylgt með hrúðrinu, og nýr kominn aptur, þynnri og fínni. Einstöku sinnum finnast smá göt eður rispur á skinninu, sem líklega eru komin af því, að kindin hefur klórað sjer eða núið. — Þegar hrúðrið losnar, losnar ullin með, og kemur þá bráðum ný ull í staðinn.

Bólurnar eður nabbarnir eru ýmist uppháir eður flatir, og stundum smá þykkni í skinninu; þeir eru fastir fyrir og vessalausir, hafa vanalega yfir sjer skóf eður hrúður, og þegar það er burt tekið, hafa þeir optast hörunds-lit; þó kemur það líka fyrir, að þeir eru rauðleitir; þeir eru þurrir, þegar rifið er ofan af þeim, en það vill þó til, að úr þeim smitar þvölum vessa. — Sjáist blóðvessi í kollinum, kemur það til af því, að kindin hefur klórað í þá. Ekki veit jeg dæmi til, að gröftur finnist í þeim. Þeir koma helzt fyrir meðfram bringukollsröðinni, í fram- og apturnárum og í klofinu, en líka hefi jeg sjeð þá utan á bógunum, og hingað og þangað um kroppinn.

Skorpurnar eru samanhangandi, þjettar og þurrar, flatari og sljettari enn hrúðrið, þykkastar í miðjunni og þynnri til raðanna, standa opt fleiri saman í klasa samfastar á röðunum, og eru gular eður móleitar á lit; ullin er optast þurr og hrein, þó hefi jeg einstöku sinnum sjeð hana þvala og blakka, álíka og lúsabletti. Skorpurnar eru fastari í skinninu en skófin og hrúðrið, og losna seinna, en þá er skinnið vanalega hvitt og hreint undir; þó vill það til, þegar þær eru þykkar og stórar, að smáfleiður eru undir þeim, sem smitar út úr fitukenndur vessi, og þar sem þær hafa verið, hárgar skinnið seinna enn annars; líka hefi jeg sjeð skinnið korpað og sprungið eptir að skorpan var affallin, en að nokkrum tíma liðnum var skinnið orðið náttúrlegt, og ný ull farin að vaxa upp úr blettinum. Skorpurnar sitja næstum án undantekningar á háls-kverkinni, herðakambinum og aptur eptir hriggnum. Þær hafa verið lang-sjaldgæfastar, og að eins hefur einstaka kind komið fyrir með hinni lökustu tegund þeirra, og hefi jeg nokkurnveginn áreiðanlega vissu fyrir því, að þær ekki eiga kyn sitt að rekja til kláðafaraldursins syðra.

Auk þessa áður talda, hefur hrúður komið fyrir kringum klaufir á einstöku kindum, og á einni sást rauður skinnlaus hringur kringum hornin.

Kláði þessi kemur af ónáttúrlegri veikinda útdömpun og útferð úr húðinni, og eptir því sem hún er meiri eður minni, framkoma hinar ýmsu kláðategundir, og af henni fæðist aptur óþrifalúsin eður fellilúsin, sem því er ekki fyrsta orsök til kláðans, en eykur hann, þegar hún er komin. — Fellilúsinni er opt samfara annað minna skorkvikindi, hin eiginlega kláðalús, sem ekki sjest með berum augum, bæði vegna þess, hún er svo lítil, og líka skýlir hún sjer í smáum vessaholum í hörundinu. Hún er lífseigari en hin fyr nefnda, svo kindina klæjar opt af henni, þó búið sje að eyða hinni.

Ekki veit jeg nein dæmi til þess, að þessi kláði flytjist frá einni kind á aðra við samgöngur, þó þori jeg ekki að fortaka, að það sje mögulegt.

Þegar fyrsta fjárskoðunin var afgengin, og menn þóktust verða varir við óvanalega mikinn kláða eður hörundsveiki á fjenu hingað og þangað um sýsluna, einkum í Miðfirði, voru menn í nokkrum vafa um það, hvort kláði þessi væri náttúrlegur eður af annarlegum orsökum. Því þókti það mjög svo áríðandi, að fá nákvæma og áreiðanlega lýsingu á kláðafaraldrinu syðra, til samanburðar vid hinn norðlenzka kláða, og líka til þess, að geta í tíma gjört hana almenningi hjer kunnuga, svo með því móti yrði heldur strax gripið fyrir kverkar þess, ef það bærist norður; því það sýndist ekki ólíklegt, að fjárkyn, lopts- og lands-lag, gætu hafa gjört þá breytingu á sýkinni, að útlendar lýsingar ættu ekki við að öllu leyti. Og svo var það nokkrum vafa undirorpið, hvort sýkin væri komin frá hinum enzku lömbum, sem flutt voru til suðurlandsins 1855, eður af innlendum orsökum, og þókti nauðsynlegt að fá leyst úr því, ef mögulegt væri. — Það var einnig mjög svo áríðandi, að fá vissu fyrir sóttnæmi kláðans og útbreiðslumáta, lækningatilraunum, og hvað víða hann væri kominn. Þess vegna var afráðið, að senda mann suður, og var hreppstjóri Erlendur Pálmason í Tungunesi valinn til þeirrar ferðar, því hann þókti að allra áliti bezt þar til kjörinn.

Hreppstjórinn hefur nú trúlega af hendi leyst þetta ætlunarverk, safnað öllum upplýsingum þar að lútandi, sem unnt var að fá, skoðað sjálfur kláðann og fengið einkennis-lýsingar hjá 2. skynsömum og trúverðugum mönnum: hreppstjóra Árna Bjarnarsyni á Fellsenda í Þingvallasveit og jarðyrkjumanni Guðmundi Ólafssyni í Gröf á Akranesi, og var kláðinn kominn á báða þessa bæji.

Einkenni sunnlenzka kláðafaraldursins eru þessi: Fyrst verður vart við fíngjörða væringarskóf, gula að lit, þurra, en þvala þegar um hana er strokið, eins og hún sje fitukennd. Hún kemur optast fyrir í klofinu, fyrir aptan koðrann eða júfurstæðin, og breiðir sig þaðan niðureptir lærinu að innan og aptan ofan að hækilbeini; eður hún byrjar á kviðnum, aptan til við flagbrjóskið, og les sig þaðan fram með bringukollinum, líka ofan bógana að innanverðu allt niður að knje. Þó það sje hið algengasta, að sýkin byrji þannig að neðanverðu, og færist svo upp eptir kroppnum, er hitt samt ekki sjaldgæft, að hún byrji annarstaðar eður um sama leyti á fleirum stöðum, og að hin umgetna fituskóf finnist útbreidd um mestallan kropp kindarinnar, og enda hefur það komið fyrir, að sýkin hefur byrjað á fótunum eða snoppunni. — Þessi væringarskóf eykst bráðum,

þykknar, verður móleit, og glittir í hana, líkast skúmi af lýsissápu; líka vex hinn umgetni þvali að því skapi, verður að fitukenndri vilsu, og jetur sig út í ullina. Þá koma einnig fram gular bólur hingað og þangað, sem gröftur er í, og liggja þær vanalega undir skófinni. Þegar sýkinni er svo langt komið, fer ullin vanalega að losna. — Þetta byrjar fyrst þannig: að fleiri eður færri ullarlagðar sjást standa lausir út úr reifinu, og í lagðfætinum hin umgetna þykka og þvala hrúðurskóf; einkum vekur það slæman grun, sjáist ullarlagður eður ullarfliksur hanga niður úr kviðnum eður niður á millum fóta kindarinnar, vegna þess, að sýkin byrjar optar á þeim stöðum enn öðrum, eður þegar ullarlagðar liggja eptir í bæli fjárins. Af því ullin losnar líka frá síðunum að neðan, verður kindin til að sjá eins og sauður á vordag, sem farið er að flaka á, og búinn er að missa kviðullina. — Þegar kláðinn er kominn um kindina alla eður að mestu leyti, og hinn fitukenndi vessi út úr reifinu, þá hangir ullarkápan að mestu leyti laus, klístruð saman, og smurð að innan með hinni þykku hrúðurskóf, en að utan blökk á að líta og stirnir í hana eins og lýsi hefði verið hellt þar í. Á sumum kindum er þetta að eins með blettum, sem eru sívotir eður þvalir, þó kindin sje þurr annarstaðar, og er kláðinn ætíð sjálfsagður undir þessum blettum. — Þar sem ullin með skófinni losnar upp úr, smitar úr skinninu hin áður nefnda fituvilsa, er ásamt með vessanum úr graftrarbólunum myndar skorpur, móleitar eður gulleitar að lit, og undir skorpunum draga sig saman kýli, sem standa djúpt inn í skinnið, svo opt bólar fyrir þeim í holdrosanum. Skinnið þykknar, fer í hrukkur og spryngur. Sumir hafa lagt merki til, að lungu úr kláðafje eru blárauð að lit. Það er enn nú ekki fullkomlega upplýst, hvað lengi sýkin er að búa um sig í kindinni, en eptir þeim upplýsingum, sem fengist hafa, sýnist það vera mjög svo misjafnt, og að sumar kindur fái einkenni hennar eptir fáa daga, en aðrar eptir fleiri vikur. — Hrútum er að tiltölu hættara við henni en öðru fje.

Líkt er það með kláðann og bráðapestina, að rosaveðurátta og rigningar flýta honum, og sama er um það, þegar fje fyrst fer að liggja inni, einnig slæm húsavist og íllt fóður.

Það er alkunnugt hversu næmur sunnlenzki kláðinn er, og að hann sækir ekki eingöngu á kindur, heldur er líka kúpeningi ekki óhætt fyrir honum.

Því verður ekki alveg neitað, að þessum 2. kláðategundum, nyrða og syðra, svipi nokkuð saman, þó er ekki torvelt enn sem komið er, að finna verulegan mismun þeirra, og ætla jeg að taka stuttlega upp aptur einkenni hvers um sig.

### Norðlenzki kláðinn.

1. Skófin er þurr og fitulaus, nema þegar hún er þvöl af sauðfitu, og er hún þá vanalega hvít, einkum á fullorðnu fje. Þegar hún losnar, hefur skinnið náttúrlegan lit,, og bráðum sprettur nýja ullin, einkum ef kindin er vel haldin.
2. Bólurnar hafa undir skófinni náttúrlegan hörundslit, nema þegar þær stundum eru rauðleitar, eður lítilfjörlegur blóðvessi eður þvali finnst í kollinum á þeim; en að öðru leyti eru þær þjettar og vessalausar.
3. Hrúðurinn er hvítur eður hvítgulur, þurr og harður, skinnið undir honum optast náttúrlegt, og hafi komið sprungur eður göt á það, grær það bráðum, og vex nýja ullin upp undir hrúðrinum.
4. Skorpurnar eru þurrar og þjettar, og ullin yfir þeim optast með náttúrlegum lit, en hafi

### Sunnlenzki kláðinn.

1. Skófin er ætíð þvöl, í fyrstunni gul, en síðan móleit, og stirnir þá í hana eins og skúm af lýsissápu, og hún smá þykknar. Þegar hún losnar við skinnið, þá er það hárlaust, og smurt með grænleitum fituvessa, sem stirnir í eins og í skófina, og þá er meira eður minna farinn að lita ullina.
2. Bólurnar eru gular á lit, fullar með gröft þegar stungið er í þær, og úr þeim rennur límfelldur vessi, sem verður að harðri og þykkri skorpu, þegar hann þornar.
3. Hrúðurskófin verður að blakkleitri skorpuhúð, sem er þvöl og stirnir í, af því henni fylgir jafnan hin fitukennda vilsa, sem klístrar ullina saman og gjörir lagðinn blakkan.
4. Skorpurnar koma fyrir á meðan ullin er á kindinni, og losna fyrri, af því útferðin

hún blakknað við útdömpun, þá líkist þsð svo kölluðum lúsabletti. Skinnið undir þeim er optast náttúrlegt, en sje það með fleiðrum, hrukkum eður sprungum, þá grær það vanalega fljótt við lækningatilraunir, verður náttúrlegt og ný ull vex á blettinum. Undir þeim hefur aldrei orðið vart við graftrarkýli.

5. þegar ullin losnar, þá er það næstum ætíð á herðakambinum fyrir aptan bógana eður á síðunum, og rífi kindin mikið af sjer, svo að stórar skellur komi, þá er skinnið optast eptir sljett og þurrt, og fer þá kláðinn að rjena.

6. Enn nú eru engin dæmi til þess, að kláðinn sje næmur.

7. Reynslan hefur sýnt, að hann er vel læknanlegur, ef rjett er aðfarið, án þess að koma aptur.

er miklu meiri, en þær koma einkum á skinnið, þegar ullin er orðin laus. þær eru gular eða móleitar, þykkar, háar og ósljettar; þeim fylgir hin áður nefnda fituvilsa, og undir þeim hingað og þangað graftrarkýli, sem standa djúpt.

5. Heilir lagðar eður fliksur detta upp úr skinninu, með hinni einkennilegu hrúðurskóf neðan á lagðfætinum, og skinnið, þar sem lagðurinn dettur upp úr, smurt með grænleitri fitukenndri vilsu. þetta byrjar optast fyrst á kindinni að neðan.

6. Kláðinn fer eins og eldur í sinu, ekki að eins af einni kind á aðra, heldur kemur hann líka á kúpening.

7. þó hann læknist á einum stað, kemur hann bráðum fram á öðrum á sömu kindinni.

þannig þykist jeg sannfærður um, að norðlendingar enn nú sjeu fríir fyrir hinum næma fjárkláða, sem gengur yfir suðurland; en ekki er jeg eins viss í því, að hann ekki heimsæki norðurland í sumar eður eptirleiðis, jafnvel án þess að flytjast hingað með sunnlenzku kláðafje. því eins og margföld reynzla hefur sýnt það erlendis, að hann kviknar af sjálfum sjer, og án þess að samgöngur við kláðasjúkt fje hafi verið orsök til þess, þá er engin vissa fyrir því, að hið sama ekki geti skeð hjer, nema því að eins, að allir norðlendingar, æðri sem lægri, með stöðugum áhuga, fylgi og eindrægni, gjöri í tíma allt sem mögulegt er, bæði til að fyrirbyggja þetta, og líka til að standa á móti því, að hinn óttalegi sunnlenzki kláði flytjist hingað.

Hið fyrsta nauðsynlega viðvíkjandi kláðavörninni er það, að útrýma, og útrýma strax og algjörlega öllum þeim kláða, er nú verður vart við á sauðfjenaði; hið annað, sem ekki er minna ívarið, er það, að gjöra fjenaðinn ómóttækilegri eptirleiðis fyrir kláðanum.

það er þess vegna áríðandi, að halda áfram fjárskoðuninni nógu opt og nægilega tryggjandi, og að menn ekki einblíni á faraldrið syðra, eins og hvergi sje annarstaðar hættuvon. Fjárskoðunin þarf því að framfara dyggilega nær og fjær. — Allar þær kindur, sem finnast með hinni lökustu norðlenzku kláðategund, sumsje þær, sem eru með stórum skorpum, miklu hrúðri víða um kroppinn, töluverðri vessa-útferð, einkum ef hún í nokkru líkist þeirri sunnlenzku, ef skinnið er víða eður að mun korpað og sprungið, ef graftrarsár eður graftrarbólur finnast með kláða, þá sjeu þær hiklaust skornar, og eins þær, sem ekki hafa orðið læknaðar með ítrekuðum og rjettilega viðhöfðum lækningatilraunum. — Að öllum sje stranglega haldið til, að brúka strax lækningatilraunir á öllu fje, sem hefur nokkur kláða-einkenni, og þá þær, sem aðrir hafa reynt að vera gagnlegar; líka skal ítreka þær eptir þörfum.

Hjer til nefni jeg fyrst kúahland gamallt og stækt, skal velgja það, leysa upp í 8 pottum eina mörk að mælir af matarsalti, og bera það volgt í kindina að ofan og neðan, svo mikið, að bjórinn allur verði votur, og einkum bera vel á kláðablettina.

Ef einhverstaðar eru fastar skorpur, harsl í skinninu, sár eður sprungur, þá er nauðsynlegt, að smyrja þann stað, til skiptis við löginn, í velgdri, hreinni hrossa- eður nauta-feiti, hangikjötsfloti, lýsi, eður hverri annari feiti, sem leysir upp úr skinninu og mýkir það; líka drepur alls slags feiti fjárlúsina, sje skinnið nægilega smurt með henni.

þar næst er tóbaks-sósan, sem er kröptugra kláðameðal enn hið fyr talda, og er tekið 1 pund af munntóbaki, sem er blaðað niður, saman við 12 potta af kúahlandi, þetta er soðið, þangað til eptir eru 8 pottar af lög, tóbakið síjað frá, og leyst upp í lögnum mörk af matarsalti. Hálfur

til heill peli af þessu er borinn í kindina, fyrst nokkuð að neðan í klofið og nárana, síðan eptir endilöngum hriggnum, og skal vel gá að því, að lögurinn fari jafnt báðumegin við hrigginn. Í staðinn fyrir hland má líka brúka vatn, en þó verður lögurinn ekki eins kröptugur. — Hinn 3. kláðalögur er sót með kúahlandi, og eins að farið, þó hann má ske ekki sje eins fullkomlega áreiðanlegur, eins ag sá næst undangangandi. — það er gott að blanda saman við hvern þenna kláðalög, sem brúkaður er, dálítlu af blautasápu, terpentínolíu og brennisteini, ef það væri fyrir hendi, eður þá einhverju þessara meðala, sem til væri. þannig hefi jeg blandað 20 lóðum af terpentínolíu saman við 30 potta af soðnum tóbakslög. Einnig er gott að blanda hrossafeiti — 1 til 2 pund í 20 potta — í hvern þann lög sem brúkaður er, eður þá annari feiti, ef hrossafeiti er ekki til. Hið svo kallaða lúsasalvi hefi bæði jeg og margir aðrir brúkað að undanförnu, og hefur það reynst einhlýtt til að eyða lús og kláða, en í vetur hefur það sumstaðar ekki dugað eins vel og áður, og sýnir það, ásamt öðru fleiru, að þessi kláði sje verr artaður enn sá vanalegi. þó má brúka þetta meðal, einkum í þá kláðabletti, sem ullarlausir eru, sje því núið um þá. Líka má brúka smyrsli búin til af 16 lóðum hrossafeiti, 10 lóðum lúsasalvi, 4. lóðum brennisteini og 1. lóði koparvitriol.

Kláðalöginn ætti einnig að bera í það fje, sem álitið er kláðafrítt, til að varðveita það fra því að fá hann.

þær kindur, sem ekki verða kláðafríar í vor að mestu- eða öllu-leiti þegar á fjall er rekið, ætti að passa heima eður skera þær að öðrum kosti.

Á næsta vori ætti ekki að taka ull af fje, að svo miklu leyti sem verður, fyr en það er orðið vel fýllt. Líka ætti sá vani alveg að afleggjast, að reita fje, en klippa það heldur, einkum þegar fast er á því.

Til að verja fje kláða framvegis, skal taka hverja kind, jafnóðum og hún losnar úr reifinu, baða hana, busta vel eður þvæla upp úr tóbakslög, og væri gott að brúka saman við löginn hrossafeiti, eður hverja aðra feiti. sem fengizt gæti, til að mýkja skinnið um leið og það er hreinsað; ekki þarf til þess eins mikið tóbak og áður er sagt, heldur mundi nægja helmingi minna. þegar búið er að þvo kindina, skal láta hana inn í hlýtt, hreint og þurrt hús á meðan hún þornar, og gefa henni gott hey. þær kindur, sem berar eru, skal maka vel í hrossafloti, lýsi eður hverri annari feiti, sem til væri, þegar þær eru orðnar þurrar eptir hlandbaðið. Einnig skal baða í sama lög öll lömb um fráfærnaleytið, eður hella í þau sjálfrunnu hákarlslýsi eptir endilöngum hriggnum. þessi þvottur varðveitir kindina fyrir kláða og lús framvegis, þegar það er gjört haust og vor, líka eykur hann ullarvöxtinn og bætir ullina.

Um fóður, hirðingu og húsnæði ætla jeg ekki að tala að þessu sinni, því í vetur fær það að sitja við það, sem komið er; einungis óska jeg, að hlutaðeigandi yfirvöld vildu áminna almenning um það, að bæta fjárhúsin eptirleiðis, sem allt of víða eru lág, þröng, niðursökkt og rakafull, og er það hið mesta óþrifa- lúsa- og kláða-efni.

þó norðlenzki kláðinn rjeni eður hverfi þegar fram á kemur, ættu menn fyrir það ekki að vera óhræddir og aðgjörðalausir, eður forsóma þvottinn þegar rúið verður, því það er náttúrlegt, að kláðinn minnki, enda án allra lækningatilrauna, við það, þegar fjenaðurinn fer að ganga úti, ullin að losna og detta af, og kindin að braggast; en þegar ullin fer að spretta, lopt að kólna og rigningar að vaxa, þá kemur má ske kláðinn fram aptur.

Svona reyndist það á kláðafjenu syðra næstliðið vor, og svona getur það líka reynst hjer nyrðra, ef menn eru skeytingarlausir.

Jeg ætla ekkert að tala um lækningar á hinu sunnlenzka kláðafaraldri, því síður sem það er mín sannfæring, að eptir því sem á stendur hjer á landi, sjeu sóttvarnir og niðurskurður þau einustu tiltækilegu meðöl, og að lækningar verði einungis til að ala fjanda þenna í landinu, einkum

ef hann er sprottinn af útlendri rót [1]; og þó sunnlendingar gætu, eptir sem fjenaður fækkar hjá þeim, og hægra verður að hirða hann og brúka lækningatilraunir, fengið sýkina til að rjena um tíma, þá mundi það ekki vera tilvinnandi, því hætt er við að hún einmitt fyrir lækningarnar kanni að leggjast í fjárkynið og verði smámsaman að innlendri fjársýki, og á meðan hún vofir yfir, stendur hún í vegi fyrir betrun fjárræktarinnar og fjölgun fjárins, að jeg ekki tali um þann ótta, fyrirhöfn og kostnað, sem hún ollir.

---

[1]) Eptir skýrslum þeim, sem hreppstjóri Erlendur Pálmason hefur útvegað hjá áreiðanlegum mönnum sunnanlands, er það að minni hyggju nú öldungis óyggjandi, að sunnlenzka kláðafaraldrið sje sprottið af þeim ensku lömbum, er presturinn til Hraungerðis fjekk sjer í fyrra haust og geymd voru um tíma á bænum Miðdal í Mosfellssveit.

**Havstein.**

